# Frásaga

frá einum

# Negra-Præli.

## Fyrsta atridi.

Í nockur ár (segir Prestur sá, sem sögu þessa á Engelsku í fyrstu ritad hefur), hafdi eg þjónad söfnudi minum, og haft bústad minn nálægt sjáfarsídu, þegar Officeri (edur stridsmanna-foringi) einn heimsókti mig, og sagdi mér frá, ad hann rétt nýliga hefdi flutt sig, med konu sinni og börnum, í sókn mína, og ad hann hefdi í þénustu hjá sér Negra einn, sem hann keypt hefdi fyrir þremur árum. Þessi svarta manneskja er, sagdi Officerinn, skickanlig og rádvönd sál, og lángar mikiliga til ad verda skýrdur. Eg hefi lofad hönum, ad spyrja ydur ad, hvört þér hefdud nockud á móti því? Kann hann nockud — spurdi eg þá Officerann — í vorum Christindómi? Ja, svaradi hann; eg efast alls ecki þarum! Eg spurdi þá: hefur hann lærdt ad lesa? Ja! svaradi húsbóndi hans; hann hefur um tíma lagt mikla mædu á sig til ad læra þad; og fólk mitt segir mér, ad hann géti ferdugt lesid í Bibliunni. Þá svaradi eg: ef ydur þócknast, kunnid þér ad láta hann koma til mín á morgun um nónbil. En — hefur hann allatíd verid med sama skapi, sem hann er nú? O neyl svaradi Officerinn; þegar eg fyrst féck hann, var hann

óstýrilátur og svikull íbland; en síðan fyrir tveim árum, er hann orðinn rétt önnur skepna. Hann er nú svo siðsamur, trúr og þolinmóður, að það er stakligt; og þó aðrir hlæi að honum, reiðist hann ekki. Hann getur sæmiliga talað Engelsku, þó hún sé nockuð bjöguð. — Mér er eptirlæti að sjá hann, sagði eg þá, og eg vil yfirheyra hann og uppfræða, og dæma svo um: hvört hann sær sé til að taka heil. skýrn, eður ekki.

Að þessu fyrirheiti feingnu, gékk Officerinn burtu, og Negrinn kom síðan til mín, á tilteknum tíma. Hann leit út að vera úngur maður, með góðmótligu, en eptirþánkafullu yfirbragði. Eg bauð honum að setja sig niður, og sagði til hans: Húsbóndi þinn hefur sagt mér, að þú vildir tala við mig, og fá nockra uppfræðingu um, hvað viðvíkur skýrn þeirra Christnu. Hann svaraði: já Herra! eg óska inniliga að verða Christinn. Eg sagði þá: hví óskarðu þess svo mikið? Hann svaraði: af því eg veit, að Christnir komast í himnaríki, þegar þeir deya. Eg spurði hann: hefurðu leingi borið þessa ósk fyrir brjósti þér? Hann svaraði: síðan fyrir tveim árum, þá eg heyrði eina góða prédikun í Americu. Eg spurði hann þá: hvar ert þú fæddur? Hann svaraði: í Africu. Eg var ofurlítill dreingur, þegar þeir hvítu gjörðu mig að þræli. Eg spurði: hvörnig gékk það til? Hann svaraði: foreldrar mínir leifðu mér einn dag, að fara ofan í sjóarfjöru, til að tína skeljar. Og eitt sinn, þegar eg laut niður að taka þær upp, kom einn bátur með hvíta menn að landi, og þeir tóku mig burtu; og síðan hefi eg aldrei séð föður né móður. Eg spurði: hvað gjörðu þeir þá við þig síðan? Hann svaraði: þeir settu mig í skip, og fluttu mig til Jamaicu, og seldu mig síðan einum herramanni, í hvörs

húsi eg var nockur ár. Fyrir þrem árum síðan tók Capteininn, sem við ydur taladi, mig til þjónustu sér, á sínu skipi. Hann er gódur husbóndi; hann gaf mér mitt frelsi, og eg á nú heima hjá honum. Eg spurdi hann: hafdirdu nockra þánka um sálu þína, ádur enn þú komst til Americu? Aldeilis einga, svaradi hann; því eingin manneskja kéndi mér neitt þar að lútandi. Þá sagdi eg: segdu mér nú enn framar, hvad fyrir þig kom í Americu? Hvornig kom það til að þú komst þángad? Hann svaradi: Húsbóndi minn, hafdi mig með sér þángað: og við dvöldum þar einn mánud; og þar féck eg að heyra einn gódann Prest prédika. Eg spurdi: hvad var það þá, sem Presturinn sagdi? Hann svaradi: hann sagdi eg væri einn stór syndari. Eg spurdi: taladi hann þá til þín eins, útaf fyrir þig? Hann svaradi: svo fannst mér! þar voru að sönnu mikið margir nálægir; en mér fannst hann tala allt einúngis til mín. Eg spurdi þá: hvad sagdi Presturinn þess? Hinn svaradi: hann útmáladi allt sem var í hjarta mínu. Eg spurdi: Allt — hvad þá? Hann svaradi: mínar syndir, mitt fáfrædi, að eg vissi eingann hlut; að eg hefdi einga trú; að eg ecki hugsadi neitt gott, og gjordi ecki neitt gott. Eg spurdi: sagdi hann þá ecki neitt fleira? Negrinn svarar: hann leit stundum á mig og sagdi: að Jesús Christur hefdi geingid í daudann fyrir syndarana, svo vel fyrir svarta syndara, sem fyrir þá hvítu. Eg spurdi: hvornig kom það til, að þú þeinktir þetta væri einúngis talad til þín? Hann svaradi: af því eg var viss um, að einginn var svo stór syndari í heila hópnum, sem eg. Sá gódi Prestur má hafa vitad, að eg var þar. Eg spurdi: heyrdirdú ecki nema þá einu pré-

dikun, þann mánadar tíma, sem þú varst í Americu? Hann svaradi: jú! Húsbóndi minn lét míg gánga í kyrkju þrisvarsinnum; og alltíd óskadi eg mér, ad eg gjæti elskad Jesúm meira, og gjordt þad sem Jesús skipadi mér; en hjarta mitt var opt hardt sem steinn. Eg spurdi hann þá: En hefurdú heyrdt nockra prédikun sídan? Hann svaradi: Nei, ecki allt þar til eg heyrdi prédikun hérna í kyrkjunni, næstlidinn Sunnudag, og þá æskti eg mér ad verda skýrdur í Jesú nafni; því einginn Christinn var til ad skýra mig, þegar eg var lítill. Eg spurdi: hvílíkir hafa þínir þánkar verid, sídan þú heyrdir fyrst prédikunina í Ameríku? hefurdú ecki sagt neinum frá tilfinníngum þínum? Hann svaradi: eingum manni, nema Gudi einum. Sá gódi Prestur sagdi: ad Gud heyrdi bænir þeirra vesælu. Þess vegna hefi eg hrópad til Guds, og hann hefur heyrdt mig. Opt hefi eg hugsád til Jesú Christs, og óskad mér, ad géta líkst honum. Eg spurdi hann þá: kanntú ad lesa? Hann svaradi: já, dálítid. Eg spurdi: hvör hefur kénnt þér þad? Hann svaradi: þad hefur Gud kénnt mér. Eg spurdi: hvad meinardú med því? Hann svaradi: Gud gaf mér gyrnd til þess, og svo veitti mér audveldt ad læra þad. Húsbóndi minn gaf mér Biblíu. Einn Matrós kénndi mér ad þeckja bókstafina, og ad stafa: og sídan lærdi eg af sjálfum mér ad lesa med Guds hjálp. Eg spurdi: hvad lastu þá í Biblíunni? Hann svaradi: Eg las um Jesúm Christ; og hvorsu ad hann elskadi syndarana; um þad, hvorsu ad vondir menn deyddu hann, og ad hann reis upp aptur, úr grofinni; og þetta alltsaman fyrir einn vesælann Negra. Þetta, ad hann elskadi mig svo, hefur opt tekid mikid á mig! Eg spurdi hann þá: en hvad sagdi fólkid, þegar þad sá þig lesa í Biblíunni,

og vera svo gudrækinn? Hann svaradi: nockrir slæmir menn, sem ecki elskudu Jesúm Christ, kölludu mig stóra narrann: Negra hundinn, og svarta hræsnarann. Yfir þessu gramdist mér stundum; en mér kom þá strags í hug, ad einn Christinn ætti ecki ad skeyta um slíkt. Jesús Christur var líka kalladur morgum hædnis-nofnum, en hann var samt þolinmódur sem Lamb; og þegar mér kom þetta í hug, taladi eg ecki eitt ord móti hinum. Yfir þessum svorum Negrans féll eg í addáun, þegar eg sá hans tilgjordarlausu atferd og hreinskilna sinnislag; og nú vildi eg komast enn betur ad, hvorja þeckíngu hann hefdi á hofud atridum trúarbragdanna, og hvorja verkun hún gjordt hefdi í hjarta hans. Mér komu þá í hug þau ord Postulans (1 Cor. 13, 13), í hvorjum hann innilyktur hofud-summu Christindóms sins; og sagdi því til Negrans: Segdú mér, hvad er trú? Hvor er þín trú? hvorju trúir þú um Jesúm Christ, og þína eigin sálu! Hann svaradi: eg trúi ad Jesús Christur sé í heiminn kominn til ad frelsa syndugar manneskjur, og ad eg sé sá stærsti syndari; en eg trúi þó, ad Jesús vilji frelsa mig, þó eg sé einn vesælings svartur Negri. Þá spurdi eg hann: hvor er von þín? hvors væntir þú, bædi í tilliti nálægs og eptirkomanda lífs? Hann svaradi: eg vona ad Jesús Christur muni sorga fyrir mér; ad hann muni vardveita mig frá synd og ógjæfu, medan eg lifi hér; og eg vona, ad nær eg dey, muni eg fá ad lifa med honum ad eilífu. Eg spurdi þá: en hvorja þánka hefur þú um þann christiliga kjærleika? eg meina: hvorn og hvad áttu mest ad elska? Hann svaradi: eg elska Gud Fodur, af því hann var svo gódur ad senda sinn Son; eg elska Jesúm Christ, af því ad hann elskadi mig ad

forrabragdi; eg elska allar manneskjur — svartar sem hvítar manneskjur — því Gud hefur skapad þær allar. Eg elska gott Christid Fólk, því Jesús elskar þad, og þad elskar Jesúm. Þess háttar var nú mitt fyrsta samtal, vid þennan minn nýa Lærisvein; og eg gladdi mig í þeirri von, ad géta, eptir hans ósk, tekid hann í samfélag Jesú safnadar. Eg æskti því ad géta talad vid hann, enn meira, til ad rannsaka grant ástand hans; og hét eg því, ad rida til heimilis húsbónda hans, innan fárra daga, og eiga þar samtal vid hann. Þegar hann var nú farinn í burtu, frá mér, þeinkti eg med sjálfum mér: víst hefur Gud med síns Sonar blódi endurleist sálir af allra handa ættqvíslum, túngumálum og þjódum. Þó margar séu um hrid, undirþryktar jardneskju þrældóms oki, sokum annara manna hrædiligu ágirndar, eingu ad sídur — lofadur veri Gud! — gefast medal þeirra nockrir, sem af Guds nád kalladir eru til dýrdarsamligs frelsis Guds barna; svo þeir eru þá endurleystir frá þrældómi diofulsins, er svo marga hefur til fánga tekid, eptir sínum vilja. Já, þad er einslags glediligur vonar þánki, sem ritníngin gefur, þegar hún segir: „Blámadurinn mun skjótt útrétta sínar hendur til Guds. Sýngid því Gudi lof, þér kóngaríkin á jordu! Sýngid Drottni lof!"

## Annad atridi.

Ecki morgum dogum eptir mitt fyrsta samtal vid minn Negra-Lærisvein, fór eg heimanad frá mér ridandi, í því áforml, ad heimsækja hann í síns húsbónda húsi, sem var innan minnar sóknar, hérum mílu vegar frá mínu heimili. Af ollu því, sem fyrir mig bar, á þessari leid, á himninum, jordunni og sjónum;

til dæmis: af þeirra yndisliga skýnandi sól, og loptsins svalandi blídu; af landslaginu á jordunni, hálsum, hædsum, skógum, blómligum hegum, og margháttudum bygsingum, sem tilheyrdu bædi ríkum og fátækum: af þeim margslags skipagrúa, sem eg sá á sjónum, af ollu þessu gafst mér tilefni til skaparans lofgjordar, og til heimsfærslu þess sýniliga, til hins ósýniliga. En allra heldst vard þó þánki minn hrærdur, þegar eg sá þær morgu hjardir, sem geingu á beit, í þeim grænu og gódu hegum innan minna sóknar takmarka, hverjar ad tilsettir smalamenn vöktudu og hyrdtu, þá hugsadi og til mins embættis og nálægra kríngumstædna, sem minntu mig á, ad eg ogsvo ætti ad vera hyrdir, til ad vakta hjord þá, sem mér af Drottni á hendur falin væri; og upplypti því anda mínum, med inniligri bæn til þess ædsta himneska yfirhirdirs, ad hann vyrdtist ad géfa mér nád til, ad finnast honum trúr í mínu embætti, til ad hafa gát á hans hjord, er hann med sínu blódi útvegad hefur; og undir eins hugsadi eg til hins africaniska Negra, sem mér var, eins og villtur saudur frá odru saudahúsi, sendur til umhyrdingar; hvert tilfelli undireins álítast mátti sem lítill forbodi þess, ad sá tími mundi koma, ad allar heimsins þjódir verdi samansafnadar til eins saudahúss, undir þeim mikla hyrdir saudanna, Drottni vorum Jesú Christó. Þetta var mér mjog yndæll og upplífgandi þánki!

Þegar eg reid nú áfram med sjóarstrondinni, vard eg, í því ad eg fór yfir eitt bratt klif, var eins manns, sem sat þar afsídis, nidurundir klifinu, á kletti einum í fjorunni, og var ad lesa í bók. Bædi af búníngi hans og yfirliti, sá eg fljótt, ad þad var einginn annar, enn minn africaniski Lærisveinn, med Biblíu sína í hondum.

Hann var svo inntekinn af þaunkum yfir lestrinum, að hann gjætti ekkért að mér, fyrr enn eg, stildrandi ofan eitt einstíg, kom gángandi að honum, og sagði til hans Vilhjálmur minn! ert þú þá hérna? Æ Herra minn! svaraði hann; hvílík gleði er mér það, að sjá ydur hér! Hvornig kémur það til, að þér komið hingað? Eg hugsaði, einginn væri hér, nema Guð og eg. Eg sagði þá til hans: eg ætlaði mér að ferðast til heimilis húsbónda þíns, og finna þig. Er nú þetta Biblían þín? Já, svaraði hann, þetta er mín blessaða Biblía. Eg sagði þá: það gleður mig, að sjá þig með Biblíuna í höndum þér; það ér gott merki Vilhjálmur! Hann svaraði: já það er merki til þess, að Guð er góður við mig; en ekki til þess, að eg sé góður við Guð. Eg spurði: hvornig þá? Hann svaraði: eg þakka honum ekki nóg; eg bið hann ekki nóg; og eg hugsa ekki nóg um hann, sem gefur mér þessa góðu hluti. Æ Herra minn! mitt hjarta er svo slæmt; eg er svo vondur! æ eg vildi eg væri eins og þér! Eg ansaði: eins og eg, Vilhjálmur! þú ert allt eins og eg, einn vesæll og þurfandi syndari! mér mundi allt eins og þér hafa verið hætta búin, að fortapast í mínum syndum, ef Guðs óendanlíga náð og miskunsemi hefði ekki rickt mér, eins og brandi, út úr eldinum, og ef hann hefði ekki látið mig reyna, sinn yfirvættis kjærleika. Þar er einginn mismunur á ockur! Við höfum hvorigur neitt að hrósa ockur af. Við höfum báðir syndgað! Hann svarar: ney! ney! þar er víst stór mismunur á! Einginn maður er eins vesæll sem eg; og einginn hefur svo slæmt hjarta sem eg. Eg svara: já, minn kjæri Vilhjálmur; eg er viss um, að þínar tilfinníngar eru eins og allra sannuppvaktra sálna, sem finna í sér syndarinnar fordæmandi krapt, en sjá þó

undir eins það háleita verð Jesú friðþægíngar, fyrir syndaranna sakir. Þú finnur til þess sama, sem Páll Postuli fann, er hann sagði: eg er sá stærsti syndari, en Jesús hefur þó dáið fyrir mig. Hann svaraði: ójá Herra! eg trúi því, að Jesús hafi dáið fyrir mig, einn vesælann Negra-þræl! Hvað mundi annars verða af mér vondum Heidíngja, ef Christur væri ekki dáinn fyrir mig? Hann er dáinn fyrir stærstu syndara! það gledur mig inniliga!

Eg spurði hann þá: hvar er það, minn kjæri, sem þú ert að lesa í Bibliunni? Hann svaraði: eg var að lesa um það, hvörnig rænínginn á krossinum talaði við Christum, og hvörnig Christur svaraði honum. Þess manns bæn var rétt fyrir mig: Drottinn Jesú minnstú mín! Drottinn, minnstú þess vesæla Negra! þetta er mín bæn dag og nótt! Þegar eg gét ekki þeinkt fleiri orð, þá þeinki eg og tala upp aptur og aptur svoleiðis: "Æ Drottinn! minnstú eins vesælings syndugs heidíngja!" Eg svaraði: efastú þá ekki, minn vin! um það: að Drottinn heyrir vísuliga þá bæn þína! Hann sem tók á móti og fyrirgaf ræníngjanum á krossinum; hann mun ekki heldur skúfa þér! Hann vill eingann þann frá sér reka, sem til hans kémur. Negrinn svaraði: eg trúi því ogsvo að vísu, minn Herra! en þar er svo yfirmáta mikil synd í hjarta mínu, og það eykur mér svo stóra ángist og sorg. Lítið þér á skélfiskana, sem þarna hafa sett sig blífasta á klettinn! eins er syndinn límfost við hjarta mitt! Eg svaraði: Láttú nú svo vera, minn kjæri, sem það sé! En taktú þér líka aðra samlíkíngu: haldtú þér eins blífast við Jesúm Christum, með trausti á hans dauða og réttlæti, eins og skélfiskar þessir halda sér fast við klettinn; og þá mun hvörki

stormvedur né sjórot freistínganna, slíta þig frá hans kjærleika! Hann svaradi: « Þetta er það eina, sem mig brestur! Eg sagdi þá til hans: segdu mér, Vilhjálmur! er ekki syndin, sem þú talar um, þín mesta mæda og byrdi? þú elskar hana víst ekki! þig. lángar til ad edlast krapt til ad standa á móti henni, og frelsast frá henni? Er það ekki svo? Hann svaradi: « eg vildi gefa alla veroldina, ef eg ætti hana, til þess ad vera laus frá syndinni! Eg sagdi þá til hans: ó komdú þá, minn bródir! já vertú velkominn til Jesú! Hans blód hreinsar af ellum syndum! Hann gaf sig sjálfann til lausnargjalds fyrir syndarana! Hann hefur borid vorn sjúkdóm, og vorum pínum hlód hann uppá sig; hann er særdur fyrir vorra synda sakir, og sleginn fyrir vorar yfirtrodslur; hegníngin lá á honum, uppá það vér hefdum fridinn, og fyrir hans benjar erum vér heilbrigdir ordnir! Gud lagdi uppá hann alla vora synda sekt. (Þetta er Bibliunnar víssi lærdómur!) Komdú þessvegna (þegar þú ert svoleidis sinnadur), komdú óhræddur til Jesúm! Hann er Frelsari syndaranna! Hann svaradi þá grátandi: « minn Herra! eg vil gjarnan koma! en það geingur svo lángsamt fyrir mér, « daudans lángsamt! Eg vildi stockva, eg vildi fljúga til hans, ef eg gjæti! En hvad Jesús getur verid gódur vid eitt vesælt Negra-grey, ad hann sendir ydur til mín, ad boda mér þetta! Eg svaradi: það mun þó ekki vera nú í fyrsta sinni, sem þú færd ad heyra þennann glediliga sannleika. Hann ansadi: Ekki! optar hefi eg heyrdt hann, og optar hefur hann hugsvalad sálu minni, sídan eg heyrdi þann góda Prest prédika, sem eg sagdi ydur frá í víkunni sem leid, heima hjá ydur. Eg svaradi: vel er það, minn kjæri! en eg vona þá, ad fyrst Gudi hefur

svo nádarsamliga þóknast ad opna augu þín, og svo kroptúgliga ad sannfæra hjarta þitt, um sína nád vid þig vesælann syndara, í því ad géfa þér sinn Son, þá vona eg, segi eg, ad þú leggir áſtundan á, ad halda hans bodord; eg vona þú kappkostir, af allri alúd, ad hegda þér vel vid þinn húsbónda, matmódur, samþjóna og allar manneskjur. Sá sem er ordinn Christinn innvortis, skal ogsvo vera Christinn útvortis; og sá sem sannarliga trúir á Christ, skal auglýsa trú sína í verknadi sínum, eins og Postulinn segir! Eda meinar þú ecki svo? Hann ansadi: « Herra minn! þad brestur mig nú, ad vera svo trúr — vid Gud og menn — sem eg ætti ad vera. Eg verd ángurbitinn, þegar eg hugsa um, hvorsu vondur þræll eg var, ádur enn mitt hjarta féck ad þeckja Jesúm Christ. Mig lángar til ad vera trúr mínum húsbónda, hvort hann sjer mig, edur ecki sjer, því eg veit ad Gud sjer mig alltid, hvad sem eg ad hefst. Eg veit, ad ef eg syndga á móti húsbónda mínum, þá syndga eg móti Gudi, og Gud verdur mér reidur. Því hvernig kann eg ad elska Jesúm, ef eg gjörl ecki þad sem hann skipar mér! Eg elska og svo mína Samþjóna, jafnvel þó þeir, eins og eg sagdi ydur um daginn, ecki elski mig; og eg bid Gud ad vardveita þá. Og þegar þeir eitthvad íllt vid mig tala, til at gjora mér gramt í gédi, þá hugsa eg, ad ef Jesús Christur hefdi verid í minn stad, mundi hann ecki med íllyrdum hafa gégnt þeirra slæmu ordum. Hann mundi hafa talad lítid, en bedid mikid; og þar fyrir tek eg ecki opinn munn minn á móti þeim, heldur bid Gud ad fyrirgéfa þeim. Þessi vóru nú Negrans svor. Því meira eg taladi vid þennann umvendta heidíngja, því framar vard eg sannfærdur um, ad hjarta hans var uppfyllt gudligri upp-

lýsíngu, og ad Guds náð verkadi í þvi kroptugliga. Stadurinn, sem vid vórum í, giordi samtal ockar ad hátídligra. Undir einu ógnarliga háu klifi, sem slútti sumstadar fram yfir hofdum ockar; vid siáfarstrondina, hvar bárurnar brotnudu á klettunum, og bárust upp á sióarsandinn; hvar siá mátti áleingdar bædi til stríds-skipa og kaupskipa fram á siónum, og þar hiá líka svo til fiskibáta; hvar siófuglanna kvak yfir ockur, og fleiri dýra raddir, fylltu ockar eyru, midt í því ad vedrid var kyrt og blídt; þannig sýndist náttúran oll kalla ockur til gaumgiæfinnar athugasemdar. Eg hafdi ædilángann tíma framhaldid samtáli mínu vid Negrann, þá eg féck ad vita, ad húsbóndi hans var ecki heima þann dag, og ad hann hefdi géfid Negranum friann nockrar stundir. Eg taladi sídan vid hann, um náttúru, skyldu og heilagleika skýrnarinnar, og fann hann fúsann til, ad taka á móti ollu þessu, og hæfaun til ad fá hlutdeild í þessum Frelsarans kiærleiks-panti í Sacramentinu; svo eg gladdist yfir því, ad eg þyrfti nú ei leingur ad álita hann gést og framandi, heldur sem sambotgara þeirra heilogu og heimamann Guds. Og þá sagdi eg til hans: Gud hefur í ritníngunni heitid ad úthella marga heidíngja, ecki ad eins med vatni skýrnarinnar heldur og med heil. anda; því hann segir svo: eg vil úthella vatni yfir þad þyrsta, og straumum yfir þurlendid; já eg vil úthella mínum anda yfir þitt sædi, og minni blessun yfir þína afkomendur. Negrinn svaradi: já Herra! Gud gétur ecki einasta géfid mér hreint hiarta og nýann anda: heldur kann hann og ad hreinsa mig med isópi ogsvo mig, svo eg verdi hvítari enn snjór. Eg óskadi þá: ad Gud vyrdtist ad géfa honum sína blessan, og uppfylla hann med sínum nadár-gáfum. Eg hafdi mikla ánægju af ad

heyra þad, med hvad stórri vidqvæmni hann taladi um sína foreldra, frá hverjum hann rændur var í barnæsku sinni, og hversu hjartanliga hann óskadi, ad Gud, á einhvern hátt, vildi leida þau til ad þeckja heimsins Frelsara. Hann hrópadi upp grátandi og rétt sem lypt-ist upp frá jordunni, í því hann taladi þessum ordum: „æ mínir elskuligu foreldrar! æ minn dýrmætasti Endur-lausnari! ó ad þú, ad þú ad eins frelsa vildir sálir þeirra, og láta þau fá ad vita, hvad mikid gott þú hefur syndurunum gjordt."

Nú þagnadi hann um stund, og syndist ecki géta tal-ad fyrir harmi. Eg sagdi þá til hans: vertú hughrau-stur, minn vin! hver veit nema eitthvert af þeim skip-um, sem vid sjáum hér út á fyrdinum hafi einn missione-ra (edur Sendi-Prest) um bord, sem eigi ad fara til þess lands, hvar þínir foreldrar, ef þau lifa, heima eiga, til ad boda Evangelium þess lands fólki. En — sagdi eg — látum ockur nú bidjast fyrir, bædi vegna þinnar eigin sálar, og þinna foreldra. Hann svaradi: æ gjörid þad Herra! gjörid þad! þad er mikid gott! bidjid fyrir þeim vesælu Negrum, bædi hér og annarstadar. Petta pláts, var þá eitt nýtt og hátídligt bænahús: Fjoru-sandurinn var ockar gólf; himininn ockar þak; klettar, hædir og sjóar-vogar voru sem veggir ad ockar kyrkju. Petta var ad vísu ecki stadur sá, hvar vant er bæna-gjord ad fremja, en nú var þad ockur einn heilagur stad-ur. Guds nærvera var tilfinnanlig. Eg badst fyrir; Negrinn grét; og mitt hjarta var svo fullt af hræring-um, ad eg grét med honum. Sá sídarsti dagur mun sýna, hvort ockar tár voru ecki tár hreinskilins og christi-ligs kjærleika. Nú var kominn tími til fyrir mig ad snúa heim aptur. Eg fór svo uppeptir aptur þad sama

einsflig í klifinu, sem eg ádur ofan fór, og studdi mig vid handlegg Negrans; þángad sem hestur minn var, hvørn eg hafdi eptir skilid á hillu einni í klifinu. Audmykt og þakklátsemi sýndu sig merkiliga á Negrans yfirbragdi. Eg tók í hønd hans ad skilnadi og qvaddi hann. Gud blessi ydur, minn kjæri Herra, sagdi hann! Og þig, min samchristni vin! (svaradi eg), æ og eilífliga.

## Þridja atridi.

Þad uppbyggiliga samtal, sem eg átt hafdi vid þann góda Negra, vakti þær tilfinningar í hjarta mínu, sem mér ómøguligt er med ordum ad útmála. Þegar eg var heimkominn, hugsadi eg serdeilis um þau føgru merki sannrar umvendunar og lifandi trúar, sem eg nýliga séd og heyrdt hafdi. Hvørsu opinbert er þad, þeinkti eg, ad syndugs manns frelsan skédur af einskjærri náð fyrir trúna; ad hún er ecki af oss; hún er Guds gáfa, ecki af verkunum, svo einginn hrósi sér. Hvør nema Guds andi einn, sem veitir oss náđarinnar líf, hefdi megnad ad umbreyta einum sáfródum, þverúdarfullum og vantrúudum heidingja, og gjøra hann ad audmjukum, upplýstum og trúudum christnum manni? Hvørsu sýniligur er hér ecki Guds almáttugi nádarvilji, sem megnar ad kalla og leida syndarana frá myrkrunum til ljóssins? Hvílíkann lærdóm meiga ecki þeir, sem í upplýstari løndum, láta sig christna kalla, draga sér út af þeirri hreinskilnu trúarjátníngu eins umvendts heidíngja. Sídar meir grenslađist eg náqvæmliga eptir, hvílík þessa únga manns hegdan dagliga væri á hans heimili; og allt hvad eg fékk ad komist þar um, var mér til ánægju, og styrkti mig í þeirri von, ad hann mundi stadfastur standa. Eg átti þareptir fleiri samtøl

vid hann, í hverjum eg fékk tækifæri til, eptir sem fram-for hans vóx í þekkíngunni, ad innræta hjá honum skilníngi þess evangeliska sannleika, eptir sem Ritníngin kénnir. Biblíuna hafdi hann sífeldt hjá sér, og æfdi sig sjálfann, æ betur og betur, í ad lesa hana og skilja; hvad hann heldur aldrei vanrækti ad gjøra, þegar hann ekki hindradist þar frá, af því, sem hann fyrir húsbónda sinn vinna átti. Eg hefi þráliga reyndt þad, ad þegar samvitska einnar manneskju, hefur af Guds anda upp-vakist til ad þeckja veg sáluhjálparinnar, hefur allur lær-dómur ordid þvílíkum mikid andveldur og skilníngurinn í andligum efnum upplýsts forandrunarliga, til nytsemd-ar bædi sjálfum þeim og ødrum. Svo gékk þad til fyrir þessum vorum Negra. Í lángann tíma hafdi eg haft þann vana, í hverri viku ad safna saman til min, nockrum sannarliga umvendtum manneskjum, á einum bæ, ecki lángt frá Negrans heimili, til ad meddeila christi-liga uppfrædíngu, halda samtal um audlig efni, og til ad bidjast fyrir. Og eg hefi reyndt, ad slíkar andagtar æfingar hafa verid mikid nytsamligar, bædi sjálfum mér og ødrum. Nú áleit eg þénanligt ad láta minn Negra fara med mér þángad, í þeirri von, ad þessa únga manns umvendan, einfeldni og hreinskilni í sønnum christindómi, gjæti ordid eitt hátalandi vitni um kjærleika Guds til syndugru manna. Eg vonadi líka svo, ad þetta sýniliga Guds nádar verk kynni verda ypparligt medal til, ad uppvékja þá og lífga til stærri alvøru í sínum christindómi, út af hvorra ofur seinfara-framgángi á sáluhjálparinnar veigi eg mjøg hugsjúkur var. Eg sókti því um leifi húsbónda hans til ad leifa honum ad fara med mér á þessa samkomu. Því þó þad sýndist sem húsbóndinn hefdi eingá innvortis lífandi verkun af

christindóminum med sjálfum sér, edur væri neitt hugsjúkur um sína eigin sálu, þókti honum þó vænt um, umsorgun mína, fyrir þessum þræli sínum, og taladi alltíd vel um hans hegdun. Eg áqvardadi sídan daginn, á hvorjum hann koma skyldi. Bærinn, sem samkoman skyldi haldast á, lá svo sem hálfa mílu frá mínu heimili. Reisa mín þángad lá yfir somu leid, sem eg ádur áminst hefi, undir fjalli því, hvar eg hitti Negrann ádur. Skodan náttúrunnar, sem mér á reisunni fyrir augu kom, vakti, sem fyrri, marga andliga þánka í brjósti mínu, og gjordi mér því reisuna yndisliga, bædi á andliga og líkamliga vísu. Þegar eg kom á stadinn, sá eg minn kjæra Negra sitja undir einu tré, bídandi eptir minni tilkomu. Hann hafdi í hendi sér eitt lítid smárit, hvort eg hafdi gefid honum, en á jordunni hjá honum lá Biblían. Hann stód á fætur, þegar hann sá mig, og sagdi mikid kjærleiksliga til mín: æ Herra minn! nú er eg mikid gladur af ad sjá ydur, eg hefi hér leingi bedid ydar. Eg svaradi: minn kjæri Vithjálmur, eg vona þér lídi nú vel! Eg er kominn til ad taka þig med mér, til nockurra fáeinna gódra vina minna, sem eg held séu og svo Guds vinir. Vid komum saman á hvorjum midvikudeigi, til ad tala um þad sem heyrir til vors andliga fridar, og eg er viss um, ad þú verdur þeim velkominn gestur. Hann svaradi: eg er ecki nógu gódur, til ad vera á medal svo góds fólks; eg er stór syndari, en þeir eru skýrdir Christnir. Eg ansadi: ef þú vinur spyrdir þá, mundu þeir eins játa sig stórsyndara, og ad vera verri enn adrir menn. Margir þeirra hafa, og þad ecki fyrir laungu sídan, lifad í opinberum syndum,

verid sáfródir um Gud, og óvinir Jesú, bædi í þaunk-
um og athöfnum. En Guds nád hefur hindrad þá á
ránglætisins veigi, og hneigt hjörtu þeirra til kjærleika
og hlýdnis vid hann og hans Evangelium. Þegar þú
finnur þá, kémur þú í hóp vesællra syndugra mann-
eskja — eins og þú ert — sem vegsama þó endurlausn-
arans nád; og eg er fullvíss um, minn gódi Vilhjálm-
ur, ad þú munt fúsliga sameina þína bænarrøddu, med
þeirra. Hann svaradi: æ, þetta á nú rétt vid mig,
vesælinginn minn!

Vid héldum sídan heim til bæarins, þar sem sam-
koman átti ad verda. Þad var ordid kunnugt, ad
Negrinn ætti þetta kvøld ad heimsækja þessa samkomu.
Anægjan yfir því skein af allra augum; þegar eg tók í
hønd hans, og leiddi hann inn, seigjandi; Eg hefi híng-
ad færdt til ydar einn bródur frá Afríku; seigid hann,
minir vinir! velkominn ad vera, í Jesú Christs nafni!
Þá mælti einn audmjukur og gudhræddur erfidismadur,
sem þar var, hvørs hjarta og túnga alltid hrærdist af
Christs kjærleika: vér erum alltid gladir, sagdi hann, ad
fá ad sjá vorn elskada kénnifødur, og einkum í dag, þar
hann hefur þennann fylgjara med sér! Vér høfum frétt,
hvørsu Gud hefur hønum nálægur verid. Géfdu mér
þína hønd, gódi vin! sagdi hann þar á eptir til Negr-
ans. Gud veri nú og ætíd med þér! Blessad veri
hans heil. nafn og mektuga nád, sem kallar vesæla synd-
ara, þvílíka sem þú og eg erum, til ad elska sig og þjóna
sér. Allt eins og þessi madur, tóku nú og svo allir
hinir adrir, af þeim samankomnu, móti Negranum.

Hann svaraða þá: Herra minn! eg veit ecki hvor orð eg á að brúka við alla þessa góðu vini. Mér vyrðist sem eg finni hér eitt lítið himnaríki á jørðunni. Með tárin í augunum, sem ogsvo framlockuðust hja hinum þeim nærverandi, sagði hann: góðir vinir og bræður í Christó Jesú! Guð blessi yður alla, og láti oss að lyktum verða sameinaða í himnaríki!

Það var venja mín, þegar eg kom á þessa samkomu, með vinum mínum, að byrja með bæn og lestri úr heil. ritníngu. Þegar eg var nú að því búinn, sagði eg þeim saman komnu frá, hvørsu Guðs forsjón leiðt hefði þennann únga mann fyrir nockru til minnar embættis handleiðslu, og að eg hefði fundið hann fullann alvarligs eptirþánka um andlig efni, hvørsvegna eg hefði ásett mér, þar eg áliti hann hreinskilinn í sinni trúar viðurkénníngu, að veita honum heilaga skýrn, eptir hans eigin ósk. Að því mæltu, sneri eg mér til Negrans, og spurði hann, svo allir heyrðu: Hvør hefur skapað þig? Hann svarar: Guð, sá góði faðir! Eg spurði: hvor hefur endurleyst þig? Hann svarar: Jesús hans elskuligur sonur, sem dó fyrir mig. Eg spurði: hvør hefur helgað þig? hann svarar: Heilagur andi, sem hefur kénnt mér að þeckja þann góða Guð føður, og hans kjæra son Jesúm. Eg spurði: hvílíkur ert þú af náttúrunni? Hann svaraði: eg er vesæll syndari. Eg finn eckért hjá mér nema synd; eg gjøri eckért annað enn synd; mín sál er svartari enn minn líkami. Eg spurði: En hefur ecki þitt sinni tekið umbreytíngu? Hann svaraði: það vona eg, Herra! En stundum er eg þó hræddur um, að það ecki sé. Eg spurði: Sé nockur umbreytíng hjá þér

skéð, hvor hefur þá verkað hana? Hann svaraði: sá góði Guð Faðir, Jesús hans elskuligur Sonur, og Guð sá heilagi Andi. Eg spurði: hvørt var tilefni til þess, að þessi umbreyting skéði hjá þér? Hann svaraði: Guð gjørði mig að þræli, þegar eg var lítill dreingur. Eg spurði: hvørnig, Vilhjálmur! ferðú að segja það, að Guð hafi gjørdt þig að þræli? Hann svaraði: nei, meining min er, að Guð hafi látið mig verða þræl hjá þeim hvítu, til þess að eg gjæti lærdt að þeckja Jesúm minn Frelsara, sem dó og úthellti sínu blóði, líka svo fyrir þá svørtu Negra. Eg spurði þá: hvað er það þá, sem Christi blóð hefur að verkum gjørdt? Hann svaraði: það hreinsar af øllum syndum, og því vona eg, að það hafi ogsvo hreinsað mig af mínum syndum. Eg spurði: eru þá allir menn hreinsaðir af syndunum, með hans blóði? Hann svaraði: ó ney, Herra! Eg spurði: hvørjir eru það þá, sem hreinsaðir eru? Hann svaraði: þeir sem hafa sanna trú á hann. Eg spurði: géturðu bevísað mér þetta út af Ritníngunni? Hann svaraði: Já, Herra! hún segir: "hvør hann trúir á Soninn, sá hefur eylíft líf; og hvør hann ecki trúir á Soninn, sá hefur ecki lífið, heldur blífur Guðs reiði yfir hønum" (Jóh. 3, 36). Eg spurði hann þá: hvað er það þá, að hafa trúna á Jesúm? Hann svaraði: eg héld það sé það, að þeinkja mest um hann af øllu; halda það allt fyrir satt sem hann sagt hefur; elska hann yfir allt fram, og tilbiðja hann ydugliga og af øllu hjarta. Og þegar eg finn, að eg er veikur og fullur af synd, þá hugsa eg til þess, að hann sé bæði máttugur og góður, og það fyrir mínar sakir. Eg spurði: hefur þú nú

sjálfur þvílíka trú, sem þú útmálad hefur? Hann svaradi: æ Herra minn! stundum finnst mér ibland, sem eg hafi enga trú! Eg spurdi; hvörnig kémur þad til, minn kjæri? Hann svaradi: þegar eg vil þeinkja um Jesúm Christ, þá hlaupa opt þánkar minir um kríng til annara hluta; þegar eg vil elska hann, þá finnst mér opt hjarta mitt vera sárkaldt; þegar eg vil setja trú á þad, sem hann talad hefur til syndaranna, þá gét eg optliga ecki tekid af því neina huggun fyrir sjálfann mig; þegar eg vil tilbidja hann, þá innskýtur Satan morgum vondum þaunkum hjá mér; og eg þacka Jesú aldrei svo vel, sem eg ætti þad ad gjora. Allt þetta gjorir mig stundum hræddann um, ad eg einga sanna trú hafi. Undir þessu samtali gat mér ecki dulist, med hvorsu alvarligri athugasemi og sameiginligum tilfinníngum, ad allir þeir nálægu tóku eptir hvorju ordi, sem þessi madur taladi. Þá sagdi eg enn framar til Negrans: Eg held, minn gódi Vilhjálmur! ad eg meigi fullvissa þig um: ad þú virkiliga hafir sanna trú á þinn Frelsara, hvorsu efasamur sem þú stundum kannt um þad ad vera! En, svaradú mér, ennþá uppá nockrar spurníngar: kom sá þánki þér i brjóst í fyrstu, ad þú værir stór syndari, og þyrftir Frelsara vid, kom hann þér í hug af sjálfum þér til, fyrir þinn eigin eptirþánka og vidleitni? Hann svaradi: ó ney! þad skédi, þegar eg minnst þeinkti þarum, eda leitadist vid því. Eg spurdi: hvors verk var þad þá, ad þessir þánkar og hræríngar byrjudust hjá þér? Hann svaradi: einkis annars enn Guds eins; af mér sjálfum var þad ecki; þad veit eg aldeilis fyrir víst. Því alls

einginn annar enn Gud hefur sendt þann góda Prest til Americu, hvörs prédikan ad fyrst uppvakti sálu mína. Eg spurdi hann þá: álitur þú Jesú endurlausn fyrir þann einasta grundvöll til syndaranna frelsis? Hann svaradi: þad álít eg vissuliga, án alls efa! Eg spurdi: trúir þú því ad hann megni ad frelsa þig? Hann svaradi: eg trúi því, ad hann megni ad frelsa þá allra stærstu syndara. Eg spurdi: en hugsardú þá líka, ad hann vilji frelsa þá? Hann svaradi: ecki þori eg ad neita því; því hann er svo gódur, svo nádugur, svo miskunsamur, ad hann lofad hefur, ad snara þeim ecki út, sem til hans koma. Eg spurdi hann enn framar: óskar þú og girnist ad hlýda hans bodordum, og leggurdú alla ástundun á þad. Hann svaradi: já, Herra! því þar sem ad hann elskar mig, þá á eg ad gjöra þad, sem hann skipar mér. Eg spurdi: en ertú viljugur til ad lída fyrir hans sakir, ef Gudi skyldi svo þóknast? Hann svaradi: af elsku til hans vildi eg jafnvel lífid láta. Hann áleit þad ecki ofmikid, ad deya fyrir vesælann syndara; skyldi þá vesæll syndari álita þad ofmikid, ad deya fyrir svo gódann Frelsara? Eg sagdi þá til hans: nú vil eg segja þér, minn kjæri Vilhjálmur! hvad eg meina: þín trú hefur frelsad þig! Svo endadi eg mína yfirheyrslu vid hann, í þetta sinn. Allir þeir nærverandi, sem í húsinu voru, hofdu hlustad á þetta samtal, med vidqvæmustu gaumgjæfni. Og einn þeirra, sem mikid var hrærdur, braust út med svolátandi ord: Nú sé eg, Herra! ad þó sumir menn séu hvitir, sumir svartir, hefur þó sannur Christindómur alltíd sama lit. Mitt hjarta hefur fundid til sann-

leikans, í sérhverju orði, sem þessi góði maður talað hefur. Já, ogsvo mitt — ogsvo mitt — qvað við frá øllum síðum, og frá allra munni. Að því búnu, þegar eg góðann tíma hafði skýrt fólkinu nockuð náqvæmligar frá lífstilfellum þessa Negra, sagði eg: látum oss nú sameiginliga vegsama Guð, fyrir hans ríkugligu, já ómælanligu náð í Jesú Christó, og sýngja nú einn sálm um hans friðþægjandi kjærleika. Jafnvel þó raddirnar yrðu nú ecki, eptir saunglistarinnar reglum, sem best samhljóðandi, var þó eitt sætt samstemmandi lag í allra hjørtum. Negrinn var lítt vanur við vorn saungmáta, en yfirbragð hans og útvortis merki sýndu þó bert, að hann fann til þess í hjarta sínu, sem vér súngum. Eg sleit síðan samqvæminu, með nockrum áminningum og tilbendíngum til þeirra nálægu: um það, hversu syndarann'na sáluhjálp skéi fyrir einúngis fría Guðs náð, án allrar mannligrar forþénustu, og upphvatti alla til að halda støðugliga fram sínu skeiðhlaupi til himins. Þessi kvøldtími, á hverjum þessi vor samfundur skéði, hafði þvílík tilfelli, að þó að þeirra aldrei verði hér á jørðu af neinum minnst, eru þau þó efalaust uppteiknuð í Guðs minnisbók á himnum.

Eptir þetta áqvarðaði eg dag, nær þessi Negri skýrast skyldi, hvað ogsvo skéði skommu þar á eptir.

Ecki að laungum tíma liðnum síðar reisti hann burt úr því héraði með húsbónda sínum; og í frá þeim tíma hefi eg eingar fréttir af honum haft; svo hvert hann enn-nú lifir hér í heimi, eður hann er komiun í

samfélag þeirra sigihrósandi á himnum, til ad sýngja þar — ásamt þeim — Frelsara sínum lof, það veit eg ecki; en hitt veit eg, ad hann er eitt staklígt minnisteikn til vors Guds og Frelsara miskunandi nádar. Lausnarans ímind var þryckt á hans hjarta, og hans umvendan — hans einfaldi og hreinskilni lifnadur — sýna best hvad Guds nád getur verkad hjá einni syndugri manneskju, sem gefur hans Anda rúm hjá sér. Gudi sé lof og dýrd!